# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

14. árg. WINNIPEG, APRÍL 1899. Nr. 2.


## Hverju kross Krists hefir komið til leiðar.

Snúið úr æfisögu Krists eftir F. W. FARRAR.

---

Afleiðingarnar af verki Jesú Krists eru jafnvel fyrir vantrúarmanninn ómótmælanlegar eins og þær blasa við í mannkynssögunni. Grimmdin varð ræk úr lífi manna. Það var farið að halda girndar-ástríðunum í skefjum. Sjálfsmorð varð í meðvitund almennings brennimerkt sem óhœfa. Hin andstyggilegu ungbarna-morð urðu fyrir hegning og fóru dvínandi. Hinn ýmsi blygðunarlausi saurugleiki heiðindómsins varð að flýja í felur, þangað inn í myrkrið, sem segja má að hann ætti heima. Naumast var nokkur sú tegund af mannlífsböli til, að ekki kœmi á henni linun eða lækning. Skylmingamönnunum varð borgið, [—þeim aumingja mönnum, sem hafðir voru til þess að berjast á leiksviðinu, almenningi til augna-gamans, upp á líf og dauða í hinum hræðilegu einvígum, ýmist við sína eigin líka, aðra samskonar menn, ellegar við óarga villudýr. Þeim mönnum varð borgið. Þeir ódæðis-sjónleikir dóu út.]*) Þrælum var gefið frelsi. Herteknir menn nutu verndar. Sjúkum mönnum var hjúkrað. Munaðarleysingjum var veitt húsaskjól og heimili. Lífi kvenna var lyft á hærra stig. Hið helga sakleysi barnœskunnar fékk yfir sig nýjan dýrðarbjarma.

---

*) Því, sem hér stendr innan hornklofanna, er til skýringar við bætt af oss.—RITST.

Á öllum stigum lífsins komu hin betrandi áhrif þess í ljós. Meðaumkunarsemi hafði verið lögð mönnum út til lasts; en hún varð nú viðrkennd sem dyggð. Fátœktin var áðr talin bölvan, að eins bölvan; en hún varð nú að blessan. Líkamleg vinna var í óvirðing og fyrirlitning; en hún varð nú virðulegt skyldustarf. Hjónabandið var lítið meira en þungbært ánauðarok, en það breyttist svo, að hjónabandið varð nálega að blessuðu sakramenti. Menn höfðu örvænt um, að mannlegt líf gæti nokkurn tíma eignazt engilbjartan hreinleik; en slíkr hreinleikr kom nú fram í lífi manna. Menn höfðu hæðzt að hógværðinni; en hún birtist nú og fékk viðrkenning. Kærleikr manna á meðal var í rauninni ekki til; að því litla leyti, sem talað verðr um hann á þeirri tíð, hélt hann sér innan hinna þröngu takmarka blóðtengda og venzla nánustu skyldmenna og vina; en úr þessu fór hann að ná út eins langt og mannlegar verur eru til í heiminum. Jafnvel þar, sem boðskapnum kristilega var *ekki* trúað, kom þannig fram hugmyndin um mennina alla sem brœðr; en svo bœttist það við um heim allan, þar sem boðskap þessum *var* trúað, að líf einstaklinganna fengu á sig nýjan hreinleik og sálir manna nýja lyfting. Og í öllum löndum, þar sem kristindómsboðskapnum hefir í sannleika verið trúað og hann hefir náð að setja mót sitt á mannlegt líf, hefir hann af sér getið slíkan hreinleik í hjörtum manna, slíkan frið í sálum manna, og slíkan unað í heimilislífi manna, að virðast mætti, að englarnir, sem boðuðu komu Krists í heiminn, hafi einnig látið þessi eða þvílík orð óma í eyrum allra beygðra og kraminna mótlætismanna: ,,Þegar þér liggið á milli hjarðanna, þá eru dúfuvængirnir þaktir af silfri og fjaðrir hennar pentaðar gulli.''*)

— — — — — — — —

En þó að það þannig sé stórkostlega mikið, sem jafnvel algjörlega trúlaus maðr hlýtr að sjá að leitt hafi til blessunar fyrir heiminn af lífi og dauða Jesú Krists, þá sér þó trúaðr kristinn maðr miklu miklu meira. Í hans augum er líf og dauði Jesú beinlínis sama sem upprisa frá dauðum. Kross Krists er fyrir honum nokkuð óendanlega miklu meira en það,

*) Sálm. 68, 13.

er hið ytra kemr fram í sögu mannkynsins. Kross Krists merkir fyrir honum uppfylling allra hinna guðlegu spádóma og mannkynssöguna búna að ná síðasta fullkomnunar-endimarki sínu. Kross Krists merkir fyrir honum úrlausn á leyndardómi fœðingarinnar og sigrvinning á leyndardómi grafarinnar. Líf Krists er fyrir honum hin fullkomna fyrirmynd; dauði Krists óendanleg endrlausn. Þegar kristinn maðr íhugar holdtekju Jesú og krossfesting hans, þá finnr hann ekki til þess, að guð sé langt á burtu, að jörð þessi sé að eins ofr lítill depill, sem látinn er eiga sig sjálfr, í takmarkalausum himinblámanum, og maðrinn að eins ómerkileg smáögn, sem fleygt hefir verið af blindri örlagahending út á meðal hinna mörgu milíóna mannssálna,—heldr hrópar hann í trú og von og kærleika: „Þetta er tjaldbúð guðs á meðal mannanna; hjá þeim mun hann bústað hafa, og þeir skulu vera hans fólk.“—„Þér eruð musteri lifanda guðs, eins og guð hefir sagt: „Eg vil búa á meðal þeirra og dvelja hjá þeim“ (Op. 21, 3—sbr. Esek. 37, 27—; 2. Kor. 6, 16).

## Frá Íslandi.

**Eftir séra Jónas A. Sigurðsson.**

II.

Í síðastliðnum Maímánuði, á annan í hvítasunnu, lagði eg að heiman til Íslands. Í blaðinu „Lögbergi“, og sömuleiðis í öðru blaði, ensku, hefi eg þegar getið ferðar minnar til Skotlands, og vil eg sem minnst endrtaka af því, sem þar var sagt.

En þar er nú til máls að taka, sem fyrr var frá horfið að „Lögbergi“.

Það var á laugardag 11. Júní kl. 6½ að kvöldinu, að eg sté út úr járnbrautarlestinni í Edinburgh, höfuðstað Skotlands. Frá New York fór eg laugard. 4. Júní kl. ¾ e. h.; yfir Atlanzhafið til Queenstown á Írlandi, þaðan til Liverpool á vestrströnd Englands, og eftir dálitla dvöl þar norðr um land til Edinburgh, var farið allt á einni viku.

Eg man vel eftir þessum fyrsta degi mínum við England.

þó þjóðerni og tunga sé hin sama og hér, kom mér allt ókunnuglega fyrir sjónir. Svo ,,þyngdi í lofti þoka dimm“. Mér fannst eg vera svo dœmalaust einn. Eg vissi, að eg átti engan samferðamann þar og engan samlanda hjá mér. Eg var einn að hugsa til hinnar fjarlægu *Thule*, konungsdótturinnar í álögum norðr við heimskautsbaug, — einn í allri þessari mannös að leita hennar. *Beda* hinn virðulegi (700—755) reit endr fyrir löngu um þessa ey og miðnætrsólina hennar. En mennirnir elskuðu myrkrið meir en ljósið, og lengi beið *Thule*—Ísland—mannlaus ey og ein í úthafinu. Loks var hún numin,—hernumin. Átti eg þá ekki sömuleiðis, barnið hennar, að vera einn?

þá er svo stendr á, getr maðr orðið býsna einn og lítill—þýðingarlítill í heiminum. Oft hafði eg gaman af að fara einförum sem unglingr, og lengi hafði eg þráð að fara í glímu við þennan heim. það var aldrei mikil víkingslund í mér, en talsvert farmannseðli. þá langaði mig úr einverunni út í heim. Nú langaði mig enn meir úr fjölmenninu aftr til föðurlandsins, heim. Óhætt er mér að segja, að eg þráði það næst landi fyrirheitisins. Nú var óskastundin hitt. Draumr margra ára var nú að koma fram, — minn lífsdraumr. Og hvað var þá loks unnið í allri þessari glímu? Átti eg að ganga haltr af hólmi sem Jakob forðum á leið til föðurlandsins? Eg veit það eigi; en hitt þrái eg og um það var eg að reyna að biðja, fyrir mig og börnin, sem ,,vita ei, hvers biðja ber“, að þegar vér förum að heiman, birtist guð oss í öllum œskudraumum og síðar blessi hann oss ávallt í lífsbaráttunni, sem forðum blessaði hann barn sitt Jakob einmana í austrlanda-óbyggðunum.

Á leið þessari vöktu oft í huga mér vísuorð séra Mattíasar um börnin, sem drukknuðu á heimleið: ,,en foreldranna faðmr er fyrir handan á.“ það dró þau heimleiðis, út í ána og inn í eilífðina.

Og heldr hefði eg lagt á tvær hættur eins og þessi börn en að komast ekki heim. Og eftir að eg kom til Skotlands var þetta ávallt efst í huga mínum: ,,Í Jesú nafni áfram, því örskammt er heim.“

———

þó mér fyndist mikið til um höfuðborg Skotlands, sögustaðina þar og fólkið, brá mér mjög við loftslagið. Eg efa ekki, að það geti verið heilnæmt. En það er hráslagalegt og kalt fyrir þann, sem þangað kemr frá meginlandi Ameríku. það fylgir náttúrlega sjóloftinu, hve kaldr hinn minnsti andvari reynist. Að kvöldi hins 14. Júní var hitinn að eins 52 gr. Alla dagana hvíldi móða eða mistr yfir öllu, sjó og landi. það jók einhvern drunga í loftinu, og hélt eg fyrst, að þetta væri einhver reykjar-móða, sem tíð er í stórborgum. En það var ekki. Mjög hamlar hún útsýni, því maðr sér skammt og ógloggt. Í haust, þegar eg kom aftr frá Íslandi, grúfði þetta sama móðu-ský, líkast byssu-reyk, eins og þak, ekki einungis yfir borgunum, sem London, heldr yfir landinu öllu. þrátt fyrir það eru Bretar enginn þokulýðr, heldr menn komnir „út úr þokunni".—Rétt áðr en eg fór frá Skotlandi, heimsótti eg próf. Sveinbjörn þ. Sveinbjörnson. Hann er prestaskólakandídat frá Reykjavík (f. 1847, útskr. 1868), ljúfr maðr og ástúðlegr. Að líkindum er hann hinn eini íslenzki söngfræðingr og tónskáld, sem atvinnu hefir af þeirri list í einni menntastöð heimsins. Fremr er það sorglegt, hve sjaldan vér Íslendingar njótum sjálfir hinna beztu krafta hjá börnum þjóðar vorrar. Oft geta sögur vorar um það, að frægir og friðsamir Íslendingar kusu að dvelja erlendis, fjarri hinu þrönga og deilugjarna þjóðlífi ættjarðarinnar. það var ekki að eins, að þeir öfluðu sér erlendis fjár og frama, að þeir lærðu þar íþróttir og atorku, heldr dvöldu margir hinna nýtustu manna að langvistum í útlöndum, af frjálsum vilja, — eða þjóðin gjörði þá útlæga. þannig gekk það í öndverðu og gengr því miðr enn, þó aðrar sé nú orsakirnar. Hið allra sárasta er þó, að óspektir, andleysi og kristnispjöll skuli hvorki þá né nú hafa fengið sinn útlegðardóm, — og aldrei átt útkvæmt til Íslands. — Á leið minni að heiman gisti eg hjá próf. Sveinbjörnson. Ber heimili hans vott um velgengni og er við hœfi tiginna manna. Söng hann þá fyrir mig nýorktan stríðssöng eftir sjálfan sig (lagið), og mun eg aldrei fá gleymt þeirri list, sem bæði lagið, söngrinn og hljóðfœrasláttrinn birti. — Hann er mjög íslenzkr í anda og var að ráðgjöra

Ameríkuferð og jafnvel að setjast hér að. Má nærri geta, að eg hafi ekki latt hann þeirrar farar.

15. Júní átti gufuskipið „Thyra" að koma til Leith frá Kaupmannahöfn, á leið til Íslands. Það skip er minnst þeirra skipa, sem til Íslands ganga, einar 830 lestir, og heldr seint í förum. Brá mér við eftir skip það, sem eg fór með frá New York, því það var nálega 13 þúsund lestir.

Frá Leith, eða Edinburgh, eru um 800 enskar mílur til Íslands; og þó eru þessi dönsku póstskip 4—5 sólarhringa að fara þá leið, þegar vel gengr. Mér var sagt, að hið danska „sameinaða gufuskipafélag" hefði um 120 gufuskip í förum, og eru þau, sem til Íslands ganga, án efa ekki þeirra bezt. Fátœkum er flest full-boðlegt. Félagið hefir umboðsmenn í Leith, Geo. Turnbull & Co., og geta farþegar snúið sér til þeirra. Enskir og danskir peningar ganga jafnt til félagsins. Ferjutollrinn til Íslands er fremr hár, enda að eins einn ferjumaður (félagið). Fargjald á fyrsta farþegarúmi er 90 kr. (£5) og auk þess 4 kr. á dag fyrir fœði. Farbréf, sem gildir í 6 mán., fyrir báðar leiðir, fæst þó fyrir 144 kr. Á milli Englands og Ameríku gilda þau farbréf venjulega í 12 mánuði. Farþegum líðr hér allvel í fyrsta farrúmi, sem þó er ekki neitt betra en annað farrúm á góðum skipum, er ganga á milli Ameríku og Englands. En á þessum dönsku skipum saknar maðr hins enska dugnaðar og fjörs. Í staðinn fyrir rafljós fær maðr hér kertaljós—nema á „Botnia", að sögn. Út á það smáatriði er nú ekkert verulegt að setja. En það táknar mismuninn í svo mörgu öðru,—að mér skilst. Hið andlega andrúmsloft er breytt.—Engin var hér guðsþjónusta „um borð" eins og tíðkast á enskum, amerískum og flestum öðrum skipum. Eitt hið fyrsta, sem eg heyrði talað á þessu skipi, var álas um „innra trúboðið" í Danmörku og hnjóðsyrði um trúboða. Að slíkt sé venjulegt skal alls eigi sagt. Aftr er tilbeðið eitt goð hinna gömlu Rómverja — og Dana, Bakkus, mjög einlæglega á þeim skipum, sem eg fór með. Á viðkomustöðum koma ávallt ýmsir út í skip, ef veðr leyfir, og nokkrir, að því er virðist, til að drekka sig ölvaða, og er það sorglegr siðr. Og konur sá eg þar reykja

vindla og drekka tvímenning við karlmenn; og er þá sízt von á góðu.

Fátt var íslenzkra farþega með skipinu. Einn íslenzkr kaupmaðr, alinn upp í sömu sveit og eg, var mér samferða, búfrœðingr frá Eiðum og bóndi af austrlandi, sem komu frá sýningunni í Björgvin.—Með tíðindum má það telja, að þessi kaupmaðr er talinn auðugastr allra Íslendinga. Mest samneyti átti eg þó við prest frá London, dr. Henry Lansdell; hafði hann þegar ferðazt um flest lönd, og er auk þess orðinn talsvert nafnkunnr rithöfundr, —mest fyrir *ferðasögur*. Hann var á leið til Íslands ásamt konu sinni og nokkrum öðrum Englendingum, sem ætluðu að dvelja þar sumarlangt. Lét hann sér mjög annt um að kynnast andlegum hag Íslendinga og kirkjulífi þeirra. —Sjóferðin var tíðindalaus og sjóveðr gott. Hin venjulega skipaleið til Íslands liggr norðr með Skotlandi, fyrir austan Orkneyjar, vestan Shetlandseyja, þá nálega í norðr til Færeyja og þaðan í norðvestr til Íslands. —Frá Leith fórum við á hádegi fimmtud. 16. Júní. Á laugardagsmorguninn sáum vér Færeyjar og komum kl. 2 e. h. til Þórshafnar, sem er höfuðstaðr eyjanna. Kaupstaðarbúar eru um 1,300, en um 13 þúsundir manna eru í öllum eyjunum. Veðr var kalt og þoka í lofti. Langt var um liðið frá því eg hafði séð norðanvindinn og þokuna í sínum eltingaleik um fjöll og firrnindi. Hvað eg mundi nú vel eftir þessu á Íslandi! Lækir og smáár komu hoppandi niðr fjöll og hlíðar og út í sjó,—eins og þau væri að flýja þokuna og kuldann þar efra,—flýja eins og Brák fyrir berserksgangi Skallagríms. Náttúran er hér á sínum berserksgangi oft og einatt.

Færeyjar virtust mér hrjóstrugar; og það, sem gróðr virðist tilsýndar, er einatt mosi, en ekki gras. Sauðfjárrœkt hlýtr að vera hér lakari en á Íslandi. Aftr hygg eg hér betr stundaðar fiskiveiðar. Færeyingar eru sagðir í uppgangi. Íslendingar segja sjálfir hið gagnstœða um sinn hag. Ekki er þó landkostamunr Færeyingum í vil. Tíðarfar og stjórnarhættir hinir sömu að telja má.—Eg fór í land í Þórshöfn. Bœjarstœðið er óslétt og mjög grýtt. Minnir þar margt á íslenzkt ástand, sem vonlegt er. Húsþökin eru torfþök grasi vaxin,

sem víða heima. Dómkirkjuna eða aðalkirkjuna skoðaði eg, og er hún all-stórt, en fremr fornfálegt timbrhús, og kirkjugarðrinn umhverfis hana. Ekki man eg eftir nema einu laglegu steinhúsi, húsi amtmannsins, sem er þeirra æðsta yfirvald, ungr maðr, Berentsen að nafni.—Þorpsbúa skortir ef til vill ýms hin ytri menningar-einkenni, en þeir báru aftr á sér einkenni ráðvendni og atorku. Jafnvel smásveinar á götum voru hinir háttprúðustu og heilsuðu hinum ókunnu aðkomumönnum berhöfðaðir. Þeir voru boðnir og búnir til greiðvikni.

Tvo Englendinga hitti eg, sem eru búsettir í Þórshöfn. Þeir prédika þar aftrhvarf fyrir hinum lútersku eyjarskeggjum. Að líkindum hafa þeir þá skoðun sumra trúflokka, sem vér erum farnir að þekkja hér og heima, eins og trúbræðr vorir á norðrlöndum, að Lúterstrúarmenn sé hálfgjörðir andlegir og kirkjulegir skrælingjar,—þó þeim finnist það ef til vill ofr lítið hœgra og hættuminna að boða þeim „sannleikann" en öðrum villulýð og heiðingjum. Þriðji Englendingrinn bœttist við í Færeyjum með „Thyra", *Jones* að nafni. Hann hafði verið suðr á Spáni til að útbreiða þar ýms kristindómsrit og biblíuna. Sagði hann mér margt af ofsóknum kaþólskra manna gegn prótestöntum á Spáni. Fyrir ári liðnu söfnuðu til dœmis Jesúítar saman í bœ einum öllum þeim biblíum, er fundust, og brenndu þær opinberlega á björtu báli. Þetta aðhöfðust þá kristnir menn í lok nítjándu aldarinnar í einu forn-frægu Evrópu-ríki!—Karl keisari hinn fimmti er enn að reyna að fyrirkoma Lúter.

Við Færeyjar kynntist eg lúterskum presti þar í eyjunum, séra Friðrik Petersen. Hann er þingmaður fyrir eyjarnar í neðri deild danska ríkisþingsins. Íslenzku talar hann vel, enda gekk hann í Reykjavíkr-skóla.—Hann sagði mér, að séra Jón Bjarnason í Winnipeg væri einn af kennurum sínum. Aðstoðarprestr þjónar prestakallinu, sem er afar víðlent, í fjarveru hans. Séra Petersen er mjög viðfelldinn maðr, en orðinn ókunnugr ástandi Íslendinga og bókmenntum þeirra.—Vert er að minna á það, að hann sagði mér, að nálega engir Færeyingar hefði til Ameríku farið og vildi alls eigi vestr flytja.

Í Færeyjum hafði eg enga þreyju. Allt minnti á Ísland. Eg sár-þráði að halda þaðan og—heim. Ferðin var orðin löng, og sjóleið er óvönum þreytandi. Og enginn dagr þessarar minnar Mekka-ferðar var lengri né kaldari en sunnudagrinn, sem fór í hönd,—19. Júní. Ekkert helgihald, engin guðsþjónusta, engin sól, ekkert Ísland.—Þegar svo stendr á, er ekkert gaman að berast á boðum úti á reginhafi og eiga tvö heimkynni með 7 þús. mílna fjarlægð á milli þeirra. Eg hugsaði til marmennilsins í sögunni, sem átti sjö börn á landi og sjö börn í sjó og vissi ekki, hvað velja skyldi.—Enn var eg orðinn svo dœmalaust einn, aleinn, og átti hvergi heima. Öldugnauðið söng einstœðingsskapinn æ dýpra inn í hjarta mitt, og kuldinn hlúði að honum,—lagði sig yfir hjartað, líkt og þegar vegfarandinn villtr og örmagna grefr sig í fönn. Og þegar mér fannst hafsdjúpið vera gröf, öldurnar tár, norðan-næðingrinn mannlífs-ófriðr og hjartakuldi, og þokan menningarleysið í lífinu og myrkrið í dauðanum,—þá fór eg að hugsa um hið litla og veikviða gufuskip á leið til Íslands sem tákn hinnar veiku trúar á frelsarann, er ber þó hinn andlega farþega til lands fyrirheitisins. Og eg er þess fullviss, að Ísland sendi þá einhvern helgan landvætt mér til hjálpar. Ísland varð í huga mínum tákn helgra hluta, sem kristnir menn eiga í vændum.

Og eg marg-endrtók þessi erindi í einverunni:

„Ýtti eg knerri við Englands strönd,
auðuga af gullinu rauða.
Dúðaði vorskraut hin voldugu lönd;
viljugan, nauðugan drógu mig bönd
heim yfir hafflæmið auða,
heim, heim í átthagann snauða."

„Heill sé þér, heill sé þér, hjarta míns land!
Heldr und nálínið kalda —
heldr eg kyssi þinn klakaða sand,
komist eg heim yfir sjávarins brand,
heldr en burt frá þér halda,
hjartað mitt jöklinum falda!"

Og eg hafði þetta fyrir niðrlag minna ferðahugsana, amen allra minna áforma og orða:

„Í Jesú nafni áfram, því örskammt er heim!"



## „Fríkirkjan“.

Með nýári fór í Reykjavík að koma út nýtt kirkjulegt mánaðarrit, sem heitir „Fríkirkjan“. Ritstjórinn og útgefandinn er séra Lárus Halldórsson, utan-þjóðkirkjuprestr Reyðfirðinga. Það er í sama formi og „Sameiningin“, og er, eftir því, sem fyrirsögn þess hljóðar, gefið út „til stuðnings frjálsri kirkju og frjálslyndum kristindómi“.

Þó að tímarit þetta hafi ekki enn verið sent „Sam.“, höfum vér þó náð í tvö fyrstu blöð þess, og teljum sjálfsagt að geta þess að nokkru.

Séra Lárus Halldórsson er fyrir löngu þjóðkunnr maðr, ekki að eins fyrir þá sök, að hann hefir svo lengi staðið einn síns liðs meðal prestanna á Íslandi, fyrir utan þjóðkirkjuna, heldr líka fyrir þá sök, að hann er vitanlega svo prýðilega vel gefinn maðr, vafalaust einhver mesti hœfilegleika-maðr, sem nútíðarkristni Íslands á til í eigu sinni. Ómögulegt var líka annað en veita því eftirtekt, að hann skyldi leggja virðulega og notalega stöðu í þjóðkirkjunni í sölurnar fyrir sannfœring sína, þá er honum var orðið ljóst, að hún kœmi í algjöran bága við ráðandi skoðanir í kirkjumálum þar á Íslandi. Jafnvel þeir, sem allt aðra skoðan en séra Lárus höfðu á þeim atriðum, sem ágreiningnum ollu á milli hans og þjóðkirkjunnar, gátu ekki annað en borið virðing fyrir óeigingirni hans og sannfœringarstyrk, þó að mörgum fyndist þar fremr kenna óþarfs stíflyndis en nokkurs annars. Svo sem kunnugt er voru það seremoníurnar eða helgisiðirnir ytri í þjóðkirkju Íslands, sem urðu svo stórt númer í huga séra Lárusar, að hann sá sig til neyddan að leggja þar niðr embætti og segja skilið við hana. En síðan gjörðist hann fyrir mjög eðlilega rás viðburðanna leiðtogi fólks þess í Reyðarfirði, sem lent hafði út úr þjóðkirkjunni út af óánœgju við kirkjustjórnina. Naumast verðr orsök úrgöngu þess fólks talin gild. En þar sem sá hópr manna á annað borð var farinn að standa fyrir utan þjóðkirkjuna og vafalaust einhuga í því, að hverfa ekki aftr þar inn, þá var ekki nema eðlilegt, að séra Lárus eins og þá stóð á fyrir honum tœki prestsköllun þeirra. Hin kirkjulega

stefnuskrá hans varð þá skiljanlega fyllri en áðr. Hann fór nú ekki að eins að hugsa um það, að hinir lögboðnu ytri helgisiðir í því formi, sem þeir hafa á Íslandi, væri kristindómslífinu til fyrirstöðu, heldr líka um þjóðkirkjufyrirkomulagið, yfirráð hins borgaralega stjórnarvalds, landstjórnarinnar veraldlegu, yfir kirkjunni, sem hann réttilega sá að var og er óheppilegt og all-fjarri hinni upphaflegu hugsjón kristindómsins. Langr er nú orðinn tíminn síðan séra Lárus hóf starf í fríkirkjusöfnuði Reyðfirðinga, og hefir fremr lítið á því borið, söfnuðrinn víst ekki til muna fœrt sig út, og engar tilraunir, svo kunnugt sé, af honum verið gjörðar í þá átt að vinna sér áhangendr út um land. Hins vegar hefir þó á seinni árum heyrzt votta fyrir talsverðum áhuga á aðskilnaði ríkis og kirkju á Íslandi hjá sumum þjóðkirkjuprestunum þar. Og meðan ,,Kirkjublaðið" var á gangi virtist sem sú hugsan væri óðum að glœðast; því ritstjórinn, séra Þórhallr Bjarnarson, forstöðumaðr prestaskólans, tók það hiklaust upp á stefnuskrá blaðsins. En síðan ,,Kirkjublaðið" hætti, og jafnvel áðr, hefir sá áhugi sýnilega hjaðnað. ,,Verði ljós!", hið kirkjulega málgagn þeirra séra Jóns Helgasonar, hefir all-eindregið talað gegn fríkirkjumálinu, skiljanlega með það á bak við eyrað, að talsmönnum fríkirkjunnar meðal prestanna hafi aldrei verið veruleg alvara með það mál, og að þar sem slíkr aðskilnaðr eins og menn hafa verið að tala um hlyti að eiga ákaflega langt í land og ef til vill kœmist aldrei í framkvæmd, þá væri það að eins til þess að leiða hugi manna burt frá því, ,,sem eitt er nauðsynlegt", glœðing trúarlífsins í kirkjunni á Íslandi, að vera að burðast með annað eins mál.

Með tilliti til þessa byrjar nú séra Lárus útgáfu blaðs síns. Það á, eins og nafn þess segir til, að vera málgagn fríkirkjuhugmyndarinnar og þá auðvitað líka að vitna á móti skaðvæni fastákveðinna, lögbundinna ytri helgisiða, sem ekki eigi neina rót í guðs orði. Í ,,Upphafsljóðum", sem Janúar-blaðið byrjar á, er sterklega lýst yfir því, að eins og guðs orð sé alfrjálst, þannig eigi kristin kirkja einnig að vera frjáls.

,,Að kirkjan í eðli og anda sé frjáls
er upphaf vors máls."

þau ljóð eru í alla staði myndarleg, og flest annað er líka vel og rétt sagt, sem séra Lárus í þessum blöðum tekr fram til stuðnings fríkirkjuhugmyndinni. En þegar hann fer að tala um helgisiðamálið, þá kemr ekki lítill trúarlegr misskilningr fram hjá honum. Hann heldr því fram, að allt fyrirkomulag kristinna safnaða eigi að vera byggt á tilskipunum Jesú Krists, —ekki að eins trúin og lífið, heldr líka allar hinar ytri umbúðir kirkjunnar, form guðsþjónustunnar í smáu og stóru o.s.frv. þetta er misskilningr, og hann ekki svo lítill. Sannleikrinn er, að það eru alls engar ,,tilskipanir" til frá frelsaranum um hið ytra fyrirkomulag kirkjunnar. Slíkar guðlegar tilskipanir voru áðr til—fyrir kirkju Ísraelsmanna, og liggja fyrir oss enn í gamla testamentinu. En þær áttu að eins í gildi að vera á undirbúningstíðinni áðr en Messías kœmi, enda voru hátíðlega afnumdar með Jesú Kristi. Kristnir menn voru frá upphafi alfrjálsir að því, hvernig þeir höguðu safnaðarguðsþjónustu sinni eða yfir höfuð að tala byggi um hinn kirkjulega félagsskap sinn hið ytra. Að eins þess að gæta, að ekkert væri í því fyrirkomulagi eða formi, sem eigi fengi samþýðzt sannkristilegum trúaranda,—láta þann anda, heilagan anda, skapa formið eða fyrirkomulagið eftir því, sem á þeim og þeim staðnum og tímanum ætti bezt við. Og myndi þá sá andi æfinlega í hinum ýmsu söfnuðum taka hœfilegt tillit til sögu liðinnar tíðar og kirkjunnar í heild sinni. Með þetta í huganum afnámu þeir Lúter og samverkamenn hans á siðbótartíðinni það allt úr helgisiðum kirkjunnar, sem að einhverju leyti kom í bága við hin evangelisku sannindi guðs orðs, er þeir með drottins hjálp leiddu í ljós, en létu hitt allt óhaggað. Auðvitað geta nú helgisiðir þeir, sem tíðkazt hafa í lútersku kirkjunni, orðið að dauðum seremoníum, og hafa einatt orðið, og líklega hvergi fremr en á Íslandi. Og fyrir þessu hefir séra Lárus fyrir löngu haft opið auga. Og út af því hin mikla óbeit hans á öllum kirkjulegum helgisiðum. En hann hefir komizt of langt á þeirri leið,—svo langt, að hann vill augsýnilega reka hinn illa anda, sem valdið hefir tómleik hinna kirkjulegu helgisiða, gjört þá að dauðum seremoníum, út úr kirkjunni með öðrum samkyns anda, hinum *púrítanska* lögmálsanda, sem öll kirkjuleg form fordœmir fyrir þá sök, að ekkert í þá átt sé boðið í nýja testamentinu.

það, sem lakast er í þessum tveim fyrstu blöðum ,,Fríkirkjunnar", sem vér höfum séð, er grein ein með fyrirsögninni: ,,Lögmálsneitun", það er að segja sá partr þeirrar greinar, sem er frá ritstjóranum. það er hálfgildings vörn fyrir kenning hr. D. Östlunds, aðventista-trúboða, um helgihald

laugardagsins í ritlingi hans, nýlega útkomnum, er nefnist ,,Hvíldardagr drottins", sem séra Jón Helgason hefir ritað á móti í blaði sínu ,,Verði ljós!". En bæði vegna þess, að lítil tilhneiging er á meðal fólks vors til þess að gjöra laugardaginn að hvíldardegi í stað sunnudagsins, og þess enn fremr, að sérstaklega verðr minnzt þessa aðventista-bœklings í blaði þessu, viljum vér nú ekki frekar fara út í það mál.

,,Fríkirkjan" er með myndum; mynd af Lúter, nokkuð dauf að prentaninni til, í Janúar-blaðinu; og myndir af ýmsum merkum fyrirrennurum reformazíónarinnar í Febrúar-blaðinu.

Árgangsverð blaðsins er eins og á ,,Verði ljós!"

## Almenn kirkjubœn

(á eftir prédikan).

Almáttugi og allra miskunnsamasti guð, faðir drottins vors Jesú Krists, vér þökkum þér fyrir alla gœzku þína og hjartgróna miskunn oss til handa, einkum gjöf sonar þíns elskulegs, og fyrir opinberan vilja þíns og náðar þinnar. Og vér grátbœnum þig að gróðrsetja svo orð þitt í oss, að vér fáum geymt það í góðum og siðsömum hjörtum og með stöðuglyndi borið ávöxt í göðum verkum.

Af innsta grunni hjartna vorra biðjum vér þig að stjórna svo hinni almennu kirkju þinni með öllum hirðum hennar og þjónum, að hún fái varðveitzt í hreinni kenning þíns sáluhjálplega orðs, og trúin á þig þannig styrkzt og kærleikrinn vaxið í oss til allra manna.

Varðveit einnig og blessa stjórnarvöld ríkjanna og landanna, og sérstaklega þessa ríkis og þessa lands. — — — Veit þeim náð til þess að gæta hinna mikilvægu embættisskyldna sinna samkvæmt þínum vilja, réttlætinu til eflingar, en vonzkunni til hnekkis og hegningar, svo að vér með spekt og rósemi fáum lifað í allri guðrœkni og siðprýði.

Lát þér og þóknast að snúa hjörtum mótstöðumanna vorra og óvina, svo þeir fái lagt niðr fjandskap sinn og orðið til þess hneigðir að vera oss samferða á lífsins leið í hógværð og friði.

Hugga, ó, guð, með heilögum anda þínum alla þá, sem sem bágt eiga, alla, sem líða skort, alla sjúka menn, alla uppgefna af líkamsþreytu, alla í dauðahættu eða öðru mótlæti, en einkum þá, sem þjást fyrir sakir þíns nafns og þíns sannleiksmálefnis, svo að þeir fái tekið þrengingunum þýðlega og kannazt við þær sem merki hins föðurlega vilja þíns.

Og þótt vér höfum verðskuldað réttláta reiði þína og margfalda hegning, þá grátbœnum vér þig þó, allra miskunnsamasti faðir, að minnast ekki œskusynda vorra, né annarra afbrota vorra, heldr af óumrœðilegri gœzku þinni, náð og miskunnsemi, að vernda oss gegn öllu tjóni og öllum hættum bæði til líkams og sálar. Varðveit oss frá röngum og hættulegum kenningum, frá stríði og blóðsúthellingum, frá plágum og drepsóttum, frá eldsvoða og vatnatjóni, frá haglstormum og fellibyljum, frá uppskerubresti og hallæri, frá angist hjartans og örvænting um þína náð, og frá illum dauða. Og sýn þig á sérhverri neyðartíð nálægan hjálpara, frelsarann allra manna, einkum þeirra, sem trúa.

Lát einnig alla nauðsynlega ávexti jarðarinnar dafna, að vér fáum notið þeirra á réttum tíma. Lát kristindómsfrœðslu œskulýðsins heppnast, öll lögmæt og leyfileg störf manna á sjó og landi, allar göfugar íþróttir og alla gagnlega þekking,— og krýn það allt með blessan þinni.

(Hér má, þá er svo stendr á, bera fram sérstakar fyrirbœnir.)

Virzt þú, ó, guð, að veita oss þetta og sérhvað annað, sem vér að þínum vilja biðjum þig um, fyrir sakir hinna sáru písla og dauða Jesú Krists, sonar þíns eingetins, drottins vors og frelsara, sem með þér og heilögum anda lifir og ríkir einn sannr guð um aldir alda. Amen. *(Church Book.)*

---

Séra N. Steingrímr Þorláksson í Park River gjörði sér ferð norðr til Selkirk í Marzmánuði, dvaldi þar hjá íslenzka söfnuðinum á sunnudaginn í miðföstu og prédikaði í kirkjunni nýju bæði að morgni og kvöldi. Var svo áðr ráð fyrir gjört af honum og fulltrúum þess safnaðar. Söfnuðrinn hafði nokkru fyrr sent honum köllun til prestskapar, og kom séra Steingrímr nú með svar sitt. Og á safnaðarfundi eftir að hann var farinn var í einu hljóði ályktað, að taka prestþjónustuboði því, er hann hafði lagt fram sem svar upp á köllunina. Í bráð er að eins samið um eitt ár, þannig, að séra Steingrímr þjóni Selkirk-söfnuði ásamt norsku söfnuðunum suðr frá, þar sem hann á heima, eftir því, sem ástœður leyfa. Búizt við, að hann komi norðr annan hvern mánuð og dvelji í Selkirk um tveggja vikna tíma í hvert sinn. Þetta er sannarlegt fagnaðarefni, ekki að eins fyrir söfnuð Selkirk-manna, heldr líka fyrir kirkjufélag vort allt, sem svo mikið gott á séra Steingrími að þakka, en hefir nú tiltölulega svo lítið getað notið hans þessi ár, sem hann eingöngu hefir þjónað norsk-

um söfnuðum. Vonanda og óskanda, að hann verði nú framvegis ávalt beinlínis þjónandi prestr Íslendinga.

Selkirk-safnaðarmenn hafa stór-mikið gjört fyrir kirkju sína í seinni tíð. Þeir hafa málað hana alla að innan, sett í hana „galerí“ fyrir framstafni, þiljað fordyrið, klætt altarið prýðilega, látið ábreiðu á gólfið fyrir innan gráðurnar, og loks keypt sér sunnan úr Bandaríkjum vönduð sæti í kirkjuna, sem kostað hafa hátt á annað hundrað dollara auk flutningskostnaðar. Þetta er reglulegt stórvirki af svo fámennum söfnuði og ber vott um eigi lítinn kirkjulegan áhuga.

---

Hr. Stefán Pálsson útskrifast væntanlega í vor frá guðfræðisskólanum lúterska í Philadelphia. Hann hefir getið sér bezta orðstír á námsárum sínum bæði á þeim stór-merka prestaskóla og eins áðr meðan hann gekk á latínuskólann í Greenville, hið svo nefnda Thiel College. Eins og getið var um í „Sam.“ XIII, 10 hefir hann þessi tvö síðustu ár samfara guðfræðisnámi sínu all-iðulega prédikað fyrir ensku-mælandi lúterskum söfnuðum þar austr frá, og er hann því auðvitað þegar orðinn vanr því starfi. Hvað hann gjörir af sér í vor eftir að hann hefir lokið sér af á prestaskólanum mun ekki enn fastráðið. En oss er um það kunnugt, að hann hefir tilboð um prestsembætti, og það fleiri en eitt, austr í ríkjum. Væntanlega tœki hann þó köllun til prestskapar frá Íslendingum hér vestra, ef hann fengi hana, og það enda þótt fyrir miklu minni launum væri í þeirri átt að gangast en búast má við í hinni áttinni. Og ef einhverjir lúterskir söfnuðir eða fólkshópar Íslendinga, sem að undanförnu ekki hafa haft neina verulega prestsþjónustu eða allsendis ónóga, treysti sér nú til að kalla til sín prest, þá gjörði þeir vel í að snúa sér til þessa unga og efnilega guðfrœðings áðr en hann bindr sig fastan hjá annarrar þjóðar fólki. Svo langt sem máttr kirkjufélags vors nær, teljum vér alveg víst, að það vildi styðja að því, að hr. Stefán Pálsson gæti starfað að útbreiðslu guðs ríkis hér meðal Íslendinga.

---

Kirkjurnar, sem myndirnar í þessu „Sam.“-blaði eru af, eru báðar í prestakalli séra Björns B. Jónssonar. Kirkja Vestrheimssafnaðar var reist þegar á árinu 1891, hornsteinslagning hennar 22. sunnudag eftir trínitatis það ár. Kirkjan í Marshall var og upphaflega reist sama ár, en 1892 braut fellibylr hana og lagði hana í rústir. Ekki lá hún þó lengi í rústum. Safnaðarmenn endrreistu hana á sama ári, og fór þar fyrsta guðsþjónusta fram 4. sunnudag í aðventu 1892. En báðar voru kirkjur þessar óvígðar þangað til um kirkjuþingsleyti 1897. Þá voru þær og St. Páls kirkja í Minneota allar vígðar sama daginn, 27. Júní, 2. sunnudag eftir trínitatis.

## Næsta kirkjuþing.

Hér með auglýsi eg almenningi í söfnuðum hins evangeliska lúterska kirkjufélags Íslendinga í Vestrheimi, að næsta—fimmtánda—ársþing félagsins, sem samkvæmt ályktan síðasta kirkjuþings á að halda að Hallson í Norðr-Dakota, verðr,ef guð lofar. sett í kirkju Hallson-safnaðar föstudaginn 23. Júní, að aflokinni opinberri guðsþjónustu, sem hefst kl. 10 árdegis.

Í forföllum forseta og varaforseta, sem, eftir því, sem við er búizt, verða þá á fyrirhugaðri Íslands-ferð sinni, er séra N. Steingrími Þorlákssyni, elzta þjónanda presti kirkjufélagsins væntanlega viðstöddum, falið að gegna forsetastörfum í þingbyrjan.

Trúmála-atriðið, sem valið er til umrœðu á þessu kirkjuþingi, er *guðlegr innblástr heilagrar ritningar*. Og heldr séra Björn B. Jònsson inngangsrœðu í því mali.

Söfnuðir þeir, sem senda fleiri erindsreka en einn á kirkjuþing, gjöri svo vel, að útbúa hvern þeirra um sig með sérstöku vottorði um lögmæta kosning hans, og láti ekki nœgja að senda eitt sameiginlegt vottorð fyrir þá, er fyrir kosning hafa orðið.

Winnipeg, 11. Apríl 1899.

JÒN BJARNASON,
forseti kirkjufélagsins

---

Í fyrsta þætti af ritgjörð séra Jónasar A. Sigurðssonar í síðasta blaði „Sam." hafa hin tilfœrðu orð (á bls. 7) úr vísunni alþekktu eftir Steingrím Thorsteinsson misprentazt: „á askbotni með asklok fyrir himin"; þar stendr *askbotn* í staðinn fyrir *asklok*.

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: [illegible] Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), [illegible]rik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Björn B. Jónsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.